Hierads-Doomur Løgsagnarans Gudna Sigurdssonar, og Meddooms-Mañа, af-sagdur ad Koopa-Voge, þañ 17. Maij næstlidna, um̃ Þioofnadar-Maal Delinqventens Joons Joonssonar, er hier med stadfestur, og skal nefndur Delinqvent fyrer medkiendañ Smaa-Þioofnad Þrisvar siñum frameñ, og Kyrkiu Þioofnad i 4da Siñe, sier til vel forþients Straffs, eñ ødrum til Vidvørunar, Kaastrijkiast, med Þioofs-Marke Breñemerkiast, og til Kaupeñhafnar Schlaveries til Erfides i Jaarnum sijna Lijfs-Tijd, aa yferstandande Sumre wt-sendast. Landfogeteñ Christian Drese, sem Sakafalls Forpagtare i Gullbringu-Syslu, skal forga fyrer Exsecution þessa Dooms, Iñañ 14. Daga fraa Dags Dato, og sijdañ Utførslu Delinqventens til Schlaveriet, med þeim til Kaupeñhafnar aa yferstandande Sumre, Fraa Landenu siglande Skipum. Doomureñ var Maals-Portunum nærverande fyrer Riettenum af-sagdur.

## Num. XIV.

Sama Dag epter Middag, Settest ad Nyu i Retteñ Hr. Løgmadureñ Sveinn, og mættu Partarner er fyrer Middag fyrer Rette voru, Framkom so Eitt Iñlegg fraa Syslumañenum Biarna Halldorssyne, under Dags Dato, J hvøriu hañ vijdar Itrekar sijnar Ástædur i Dag Muñlega framfærdar, hvørt uppleſed, Not. C. Syslumadur Skwle framlagde Eitt Iñlegg, under Dags Dato, Samkvæmt sijnum i Dag framfærdum Repliqver, er Not. D. Løgsagnareñ Petur Refererar sig til þess, sem aadur Iñfært er epter hønum. Begiærest so hier uppaa Rettarens Alyktan.

## Num. XV.

Þañ 16. Julij fyrer Middag, Af-sagde Hr. Løgmadureñ Magnus, Solætande Doom i Maale Syslumañаña wr Skap[illegible]a-Pijnge.

Jafnvel þott Attest fyrer Hierads-Retteñ producerud sijne, ad Syslumeñ i Skaptafells Syslu, hafe sijdañ yfer þeirre Syslu voru 2. Syslumeñ, Arlega giørt Jafnadar Skipte sijn aa mille, so vel aa allre Iñtekt Sysluñar, sem heñar Eptergiallde, og ødrum Sysluñar Utgiftum, aa hvørre Veniu virdast maa, þad Haaloflega Cammer-Collegium grundad hafe sijnar Resolutioner, ad eingeñ Um̃breiting aa Skaptafells Syslu Iñkomstar Skiptum, skyllde fyrer-takast medañ Syslumadureñ Biarne Nicolausson lifde. Þa eru þo hier-greind Attest velflest af Einum Mañe vidimeradar Copier, og af Verianda mootmællt, þar med er Misskilningur aa Haatt-nefndum Cammer-Collegii Resolutioner, og meiga þvi ei af ødrum eñ þeim Haau Herrum i Cammer-Collegio wtleggiast, kuña þar fyrer Syslumañe Sigurde Stephanssyne ei ad sokomnu tildæmast Jafnadar-Skipte a Skaptafells Syslu-Parta Iñkomst fraa 1738. til 1743. Eñ þar Fyrverande Amtmadur Saal. Justitz-Raad Lafrentz, hefur i Anledning af Haatt-nefndum Cammer-Collegii Resolutioner þañ 17. Augusti 1743. resolverad, ad Syslumadureñ Biarne Nicolasson skyllde fyrer þeña um̃þrætta Syslu-Parta Iñtekta Mismun, Arlega betala til Syslumañsens Sigurdar Stephanssonar, 10. Rixd. Croner, hvad og af nu verande Amtmañe sijnest Ratificerad, og af Syslumañenum Biarna Nicolassyne ad nockru Epterlifad. So Dæmest og Alyktast: Hierads-Doomur Sætte Doomarans Jons Sigurdssonar af-sagdur ad Dyrhoolum i Mijrdal þañ 18. Octobr. Næstlidna, er hier med Stadfestur, so vijdt sem aahrærer 10. Rixd. Betaling Syslumañsens Biarna Nicolassonar til Syslumañsens Sigurdar Stephanssonar fraa 1743. inclusive, og þar af prætenderada Restantz

fyrer Hierads-Rette, er hleipur til 16. Rixd. 2. Mark Croner, hvoria 16. Rixd. 2. mark Croner, Syslumadureñ Biarne Nicolasson, skal til Syslumañs Sigurdar Stephanssonar, betalad hafa iñañ Næstkomande Augusti Maanadar Utgangs, ella gialldе Pridiunge meira, under Adfor og Execution, So skal og Opt-nefndur Biarne Nicolausson æ sama Hatt, fyrer þetta yferstandande Ar, og Arlega hier epter, So leinge hañ og Sigurdur Stephansson eru bæder Syslumeñ yfer Skaptafells Syslu, betala til Syslumañsens Sigurdar Stephanssonar, 10. Rixd. Croner, sem fyrer þetta Ar skulu lukter vera, til Heimiles Sigurdar, fyrer Utgangu Augusti Maanadar, Eñ hier epter Arlega fyrer sierhvörs Ars Jons Messu, ella gialldе Pridiunge meira, ef ei eru ad nefndum Sölum ad fullu lukter, Er so Hierads Doomureñ, ad þvi Leite sem ahrærer Utsvars Termined, og Skil-Eyrer þessara Arlegu Utlaata, Underkiendur. Proceſs-Kostnad til Hierads og þessa Logþijnges, betalar Syslumadur Biarne Nicolasson, til Syslumañs Sigurdar Stephanssonar, med 10 Rixd. Croner, Eñ Hierads-Doomareñ Jon Sigurdsson 3. Rixd. Ska hvorutveggia lukt til Heimiles Syslumañens Sigurdar Stephanssonar i Næstkomande Fardögum, under Adfor og Execution.

## Num. XVI.

SAma Dag, Kom fyrer Rietteñ Landfogetans Fullmegtugur Hans Tovte, og framlagde eina Logþijnges Riettar-Stefnu, af Dato 29. Aprilis 1749. Med hvørre, hijngad stefnest Sætte-Doomareñ Þorsteirn Hakonarson, ad forsvara sitt af-sagt Interlocutorium, og Doom i Maale mille Landfogetans Christian Drese, og Boondans Bergþoors Jonssonar, samt Logsagnarans Gudna Sigurdssonar, rijsande af einum uppdrifnum Hval, a Kongl. Majest. Litlu Hafnar-Neka, a Reykia-Nese; Boondeñ Bergþoor og Logsagnareñ Gudne, eru og stefnder hijngad, sem Vidkomendur. Stefnañ Uppleseñ, Not. Lit. A. Epter Stefnuñe mæter Sætte-Doomareñ Þorsteirn, eñ hvørke Bergþoor nie Logsagnareñ Gudne, jafnvel þo Prisvar upphroopader være af Riettenum. Tovte protesterar i moot Opsættelse, þo Hofud-Partarner ei Iñfiñe sig i følge N. L. Pag. 45. Art. 24. nok Pag. 57. Art. 8. Epter sem þeir ei hafe hijngad sendt sijn Forfoll, samt væntanlega, þau ei kuñe bevijsa: Monsr. Þorsteirn tilbydur sig epter Stefnuñe, til siña Adgiorda ad svara. Hier uppaa fiell solaatande Riettarens Kendelse.

Epter þvi Hofud-Partar Sakareñar, hvorke mæta i eigeñ Persoonu, nie fyrer Fullmegtuga, þa kañ ei Sokeñ a þessu Fyrsta Þijnge ad fyrertakast, og þar nu eru allar til þessa Logþijnges, wr Suñañ og Austañ Logdæmenu Iñstefndu Saker wtageradar, þa legast hier med Bergþoore Jonssyne, og Logsagnaranum Gudna Sigurdssyne, Log-Dagur til næsta Logþijnges 1750. þa þeir skulu skyllduger hier ad mæta, þañ 8 Julij, og sitt Forsvar epter framlagdrar Logþijnges Riettar-Stefnu Iñehallde, ad framfæra. Þeñañ Log-Dag lætur Actor þeim Loglega auglijsa.

## Num. XVII.

SAma Dag epter Middag, Fiell solaatande Af-sigt i Arrest-Maalenu wr Skagafiardar Syslu.

Syslumañsens Biarna Halldorssonar Astædur um þessarar Sakar Fyrerteкt, kuña ecke fyrer gilldar antakast, þar Sokeñ var ei i fyrstu epter Opreisninguñe riett Iñstefnd, ecke Proceſs Loglega beskrifadur tekeñ, nie Vidkomendur i Tijma fyrerkallad-

er,

er, hvar fyrer Sokeñe er nu aldeilis fraavijsad, so hun kañ ecke aan nijrrar Konglegrar Opreisningar ad ætteliast. Syslumañenum Skwla Magnussyne tildæmast 4. Rixd. i Kost og Tæring af Compagniet, eñ hinum Maals-Portunum eckert, so sem ecke bevijsast, þeim háfe nockur Kostnadur orsakast.

Num. XVIII.

Þañ 17. Julij fyrer Middag, Var af Hr. Løgmañenum Sveine Sølvásyne, af-ságdur Doomur i Ver-Tolla-Maalenn wr Isafiardar Syslu, Sem fylger.

Epter þvi þad er Allareidu af Vidkomande Haa-Yfervolldum Stiftesens, Amtmañe og Biskupe, med ødrum Bestu Moñum ælyktad, ad þad Transscriptar-Bref af Testamente Biørns Einarssonar, sem i þessare Søk hefur fyrer Hierads og Løgþijnges-Rette framlagt vered, skule agtast so gillt og myndugt, sem Eitt Original Document; So dæmest þad eirneñ hier med ad vera, Fullkomed og Løglegt Adkomstar-Bref, og Bevijsing Kyrkiuñar i Vatnsfirde, fyrer hælfum øllum Skreidar-Tollum i Bolungavijk, og med þvi ecke siest, ad Doomur Syslumañsens Erlends Olafssonar, sie æ þessu grundadur, þar hañ dæmt hefur under nefnda Vatnsfiardar Kyrkiu, alla Ver-Tolla wr Vijkeñe ad Nordañverdu, fraa Skierenu Pioodolfe, iñ til Fornaar-Oss, med Bwdargiørd, tilhlijdelegum Reit og Ver-Søgnum, eirneñ Elldevidar-Take og Torfskurde, þa skal same Doomur vera Upphafeñ og Underkiendur. Eñ Vatnsfiardar Kyrkiu skulu alleina tilheyra, hælfer Skreidar-Tollarner mille ædurnefndra Takmarka, Pioodolfs og Fornaar-Oss, og þeir sem i greindre Verstødu Rooa, eru skyllduger aan Tregdu og Afdrættar, sømu hælfa Skreidar-Tolla ad betala, Arlega til Prestsens i Vatnsfirde, edur hañs Umbods-Mañs i riettañ Giallds-Daga, epter þvi sem Sidvanalegt er, So og skulu þeir Brædur, Sigmundssyner, aptur skila til hañs fullum Helminge af þeim Skreidar-Tollum, er æfalled hafa, sijdañ þesse Søk kom fyrer Rett i Hierade, þañ 29. Aprilis 1746. Eñ vera aldeiles frijer fyrer øllum Maals-Kostnade, so sem hañ epter Sakareñar Afigkomulage er æ allar Sijdur upphafeñ. Testamentes-Brefed, sem i Hierads-Processeñ er Jñfært, var hier eirneñ framlagt, og hlioodar þess Approbatio Soleides. Þetta Transskriptar-Bref ælyktast af underskrifudum, so Gilldt og Myndugt, sem være Original.

Þijngvelle D. 14. Julij Anno 1749.

J. E. Pingel. Magnus Gyslason. Olafur Gyslason. Vigfws Erlendsson
Biarne Halldorsson. Sigurdur Jonsson.

Num. XIX.

Sama Dag Kom fyrer Retteñ Olafur Gudbrandsson, og framlagde Løgþijnges Rettar-Stefnu, af Dato 5. Martij 1749. Med hvørre stefnest Syslumadureñ i Skagafiardar Syslu Skwle Magnusson, med 8. Dooms-Møñum, til ad forsvara siñ Doom af 7. Octobris 1748. Yfer nefndum Olafe Gudbrandssyne, hvør fyrer 5ta Frillulijfes-Brot, er þar iñe dæmdur æ Tugt-Hwsed i Kaupenhafn. Same Olafur er og stefndur til ad lijda Løgmañs-Doom i þessare Søk, so sem Stefnañ uppleseñ og uppæskrifud, framar wtvijsar. Og Yferlijste Løgmadureñ, ad vegna Tijmans Henugleika, þa uppsette hañ þessa Stefnu til eins Extra Løgþijnges, sem tilsett er ad Økrum i Skagafirde þañ 31. Julij Næstkomande, og er þa øllum Vidkomendum tilsagt þar ad mæta, þa Endelegur Doomur skal hier wti giørast. Þetta Opsættelse var uppæ Stefnuna skrifad, og hun til Baka leverud.

 Num. 20.

ÞAñ 19. Julij fyrer Middag, Kom i Løgrettu Velbyrdigur Hr. Amtmadureñ Johañ Christian Pingel, til ad fyrertaka fyrer Rettenum Kongl. Majest. Saker, epter ædur giørdre Advørun og uppslegnum Placat, under Landfoget Dreses Nafne, af 17. hujus, og med þvi Landfogeten mætte ei siælfur, skickade Hr. Amtmadureñ Eiñ Kongl. Majest. Sysslumañ med 2ur Løgrettumøñum til hañs, sem spyrde sig fyrer, hvort hañs være hijngad Von, og komu þeir aptur med soddañ Bod, ad hañs Þienare, Hans Tovte, være hañs vegna til Stadar i Løgrettu, ef hañ hefde þar nockud ad drijfa, villde Hr. Amtmadureñ þad antaka, eñ ef ecke, kyñe hañ þo (Landfogeteñ) ecke til Stadar ad vera, þar hañ hefde ad passa uppæ Kongsens Peninga og Pappirer, heima i siñe Bwd, mætte þetta þvi gæunga sem vera villde. Framlagde so Monsr Hans Tovte, sem mætte Landfogetans vegna fyrer Rettenum, epterfylgiande Document. 1. Klaustrañа Restantzer, fræ St. Hans Dag 1717. Til Ars Dagsens 1748. 2. Sysslaña Restantzer, fræ 1727. Til 1738. dito fræ 1738. Til 1748. 3. Umbods-Jardaña Restantzer i Cornelii Vulfs Beþienings-Tijd, dito i Landfoget Luxdorphs og Endelega dito i Landfoget Dreses Beþienings-Tijd, til nærverande Datum, hvorier Opeñberlega upplesñer voru. Ad þeim upplesñum, framkomu marger, Kongl. Majest. Beþienter og Forpagtnings-Meñ, med Protester moote Landfogetans Origtugheitum: Sier i Lage Hr. Løgmadureñ Sveinn Sølvason, sem framvijsade Rifrillde af Landfogetans Qvitteringu af 15. Julij 1745. Uppæ 20. Rixd. 3. Mark, epter Eyafiardar Jarder i Forpagtning Mad. Gudrunar Gysladoottur fyrer greint Ar, hvoria Løgmadureñ seigest hafa epter Landfogetans Skila-Bodum afhent Monsr. Tovte, eñ þa Landfogeten fieck hana ad siæ, hafe hañ hana sundurrifed, og ei til þessa viliad adra eins hlioodande wtgiefa, hvad Tovte hier fyrer Rettenum medkieñer, og sem hañ vonade, ad Landfogeten hefde beþeinkt sig, og munde nu vera i Stande ad wtgiefa adra Qvittering, gieck Løgmadureñ fræ Rettenum til Landfogetans, og afrekade solæutande Qvittering, med hañs eigeñ Hende. Afg. Geir Marchusens Enke, Madr. Gudrun Gisledaatter, haver efter Oefiords Jorde pro Anno 1745. bet. 20. ½ Rixd. spec. Som her ved Oereaae D. 15. Julij 1745.

C. Drese.

Betienterne besværga sig yfer Landfogetans slettu Opførsel og Daglegum

legum Dryckiuſkap hier að Lands-Þijngenu, þar Landfogeten hafe morgum, med Afgyfternar til Baka viſſad, Sumer af þeim med þær Oafhendtar Jũeſitia, og hafe þo hañs Fullmektugur Monſr. Tovte vered þeim að hiñ beſta Hiallt Aſsiſterlegur. Voru ſo af Hr. Amtmañenum til Kaups uppbodnar Epterſkrifadar Jarder, med ſomu Conditoner og í Næſtlidens Ars Protocol, finſt uñ Jarda Uppbod Jũfært.

1. Vidbord i Skaptafells Syſlu, 9. hundr. ad Dijrleika, tilſleigeñ Løgſagnaranum Petre Þorſteinsſyne, ſem Hædſtbioodanda, fyrer 16. Rixd. (hvørn Jardar-Part Løgſagnareñ uppbaud Samſtundes, næſtu Odals-Moñum til Jũlauſnar, Jñañ Ars og Dags.)

2. Reiker i Hwnavatns Syſlu, aptur að nij uppbodner, og Hædſtbioodanda tilſlegner, Hans Tovte, vegna Þorbiorns Biarnaſonar að Skildinga-Neſe, fyrer 100. Rixd. 3. Mark.

3 10. hundr. i Blondubacka, tilſleigeñ Syſlumañenum Biarna Halldorsſyne, fyrer 15. Rixd.

4. Kroſs i Badla Syſlu, tilſleigeñ Syſlumañenum Gudmunde Sigurdsſyne, ſem Hædſtbioodanda, fyrer 120. Rixd.

Strondud Skip, Arfalauſt Goß, edur forbrotnar Biwslooder, gaf eingeñ tilkiña Hañs Majeſt. tilfalled være, ſijdañ i Firra, fyrer utañ Eina fallna Biwslood, Þiooſſens Þorſteins Loptsſonar wr Rangaar-Þijnge.

Þar næſt voru til Forpaktningar uppbodnar Reykiadals Jarder, og tilſleignar Syſlumañenum Jone Benedixſyne, ſo ſem Hædſtbioodande, fyrer 70.½ Rixd. i Fæſtu.

2. Hwnavatns Syſlu Jarder, tilſleignar Syſlumañenum Skwla Magnusſyne, Hædſtbioodande, vegna Monſ. Einars Magnusſonar, fyrer 135. Rixd. i Fæſtu, og Beniulega Afgift.

Þvi næſt voru uppleſnar Epterfylgiande Cautioner, Nefnelega Johans Mauritzſen, fyrer 218. Vætt. 37. Fiſka Skulld, hvør ed ſetur i Under-Pant Groougierde i Skagafirde, 20. hundr. i Blondubacka. 10. Hundrud, og i Geiraſtodum 8. Hundrud, Hvørlar Jarder Næſtkomande Ar, ad Hr. Amtmañſens Forlage verda Openberlega hier i Løgrettu uppbodnar, aſamt haalfu Þickvabæar Clauſtre, fraa hvøriu Syſlumadureñ Biarne Nicolasſon hefur ſig Skriflega ſagt.

Syſlumadur Hans Bium, fyrer Afgifter af ſijnum Forleningum, Pantſetur Haakonarſtade i Jokuls-Dal, 16. hundr. ad Dijrleika.

Syſlu-

Sysslumadureñ Pooraren Jonsson, fyrer Afgift af Vadla Sysslu, Jordena Prastarhool, 24. hundr. liggiande i Eyafirde

Sysslumadureñ Arnor Jonsson, fyrer Afgift af Borgarfiardar Sysslu, setur i Pant 15. hundr. i Belgshollte i Borgarfiardar Sysslu.

Clausturhalldareñ Jon Brinjolfsson Thorlacius, fyrer Kyrkiubœar Klausturs Afgift, setur til Under-Pantz 20. hundr. i Jordeñe Bodmwlastødum.

Mons. Magnus Jonsson, fyrer Fœstu, so kalladra Borgarfiardar Jarda, 25. Rixd. ad Upphæd, setur i Caution 4. Hundrud i Jorduñe Nedre-Brecku i Saurbæ.

Vegna Sysslumañsens Einars Magnussonar, caverar Løgrettumadureñ Einar Einarsson, fyrer Stranda Sysslu Afgiftar Restantz, med 10. hundr. i Jordeñe Tungufelle i Vadla Sysslu, auk 10. hundr. i Nedsta-Lande, sem siaalfur Sysslumadureñ hefur aadur sett i Caution, og yferlijser Hr. Amtmadureñ, ad þesser Jardar-Partar verde Næstkomande Ar uppbodner, so framt Sysslumañsens Restantzer sieu ei iñañ þess Tijma af-betalader.

Num. XXI.

Sama Dag var Solœtande Doomur af-sagdur i Hwsrofs-Maalenu wr Rœngœr Þijnge. Hierads-Doomur Sysslumañsens Þorsteins Magnussonar, geingeñ ad Kyrkiu-Lœk þañ 29. Junij 1748. Um Burtfœrslu og Rof Prestsens Sr. Paals Hognasonar, a Auka-Hwsunum ad Bwtrilldarstødum, er hier med stadfestur, Og skal Fyrverande Sysslumadur Brinjolfur Thorlacius, fyrer Onaudsynlega Yfing og Maals-Sookn til þessa Rettar, Betala til Sysslumañsens Þorsteins Magnussonar 4. Rixd. Croner, Eñ til Prestsens Sr. Paals Hognasonar 3. Rixd. Croner, og lwka hvorutveggia Jñañ Næstkomande Michaelis Messu, under Adfør og Exsecution.

Num. XXII.

Sama Dad epter Middag, Kom fyrer Løgþijnges-Retteñ, Sysslumadureñ Steindor Helgason, og Producerade Eina Løgþijnges-Stefnu-Copie, af Dato 10. Junij Næstlidna, med hvørre hañ er stefndur af Sigmunde Sigurdssyne, ad forsvara Eirn siñ Doom yfer hønum geingeñ, Var nefndur Sigmundur upphroopadur med fleire Vidkomendum, og mætte eingeñ af þeim, edur þeirra vegna. Uppaastendur Sysslumadureñ Steindor Kost og Tæring, fyrer Oløglega Stefnu-Yfing.

Hier uppaa fiell Rettarens Decision, ad med þvi Sigmundur Sigurdsson ecke framfylger siñe wt-tekeñe Løgþijnges Rettar-Stefnu, og framsender eingeñ Løgleg Forfoll, sem hañ þar wti hindre, skule hañ hafa tapad þessare siñe Maals-Sookn, og betala Sysslumañenum Steindore 3. Rixd. Croner i Kost og Tæring, Jñañ Næstkomande Michaelis Messu, under Adfør og Exsecution,

Num. XXIII.

Fyrer

Fyrer Løgþijnges-Rettenn 1749. Kom Gottſkalk Sigurdsſon af Mijra Syſlu, ſem Løgþijnges Stefnu til Nærverande Rettar hafde wt-teked, moot Syſlumanenum Þorgrijme Sigurdsſyne, og Hreppſtioorum i Alftaneſs Hrepp, og producerade Eina Forlijkun er hann hafde Inngeinged, vid ſijna Contra-Parta, af Dato 12. Julij, I hvørre hann fyrer Ohlijdne ſynda ſijnum Yferbodurum, hefur undergeingeſt ad betala til Fatækra i Sveitenne, 1. Hundrad a Lands-Vijſu, og bidia Forlaats Syſlumann Þorgrijm, aſamt Hreppſtiooranna Fullmegtugann Løgrettumanenn Halldor Axelsſon, Hvøriu Sijdara hann Openberlega fyrer Rettenum Fullnægde.

Num. XXIV.

AD Forlage Vel-Edla Hr. Biſkupſens Halldors Briujolfsſonar, Filger Alþijnges Bookenne 52. Articule Hans Allra-Nadugaſta Inſtrux, Hvør publiceradur fyrer Løgþijnges-Rettenum, Hlioodande ſem Filger.

## Vii CHRISTIAN Den Siette af Guds Naade/ Konge til Danmark og Norge, etc. etc. etc.

Art. 52.

BIſkopen i Holum ſkal Allernaadigſt have Frihed til, udi det ham forundte Bogtryckerie, at lade trycke, ſaa vel Geiſtlige ſom andre Landet Tienlige og Nyttige Bøger, undtagen dem, ſom Vores Kongl. Vaiſen-Huus i Kiøbenhavn, allereede har ladet trycke, eller her efter kunde finde fornøt at lade trycke i dets Bogtryckerie, hvilche hand ingenlunde ſkal underſtaae ſig at lade eftertrycke, eller paa ny at lade oplægge. Hvor i mod det ei ſkal være tilladt nogen, uden Vores Expreſse Tilladelſe, at lade Islandſke Bøger trycke, enten i Kiøbenhavn, eller Andenſtæds ſamme i Island at indføre, ſaa ſom Biſkopen paa Holum alleene ſkal Forſyne Landet med de fornødne Bøger, og hvis hand forſømmer det, eller og ſætter U-billig Priis der paa, andrages det for Os Selv til væntende Allernaadigſte Forandring.

Givet paa Vort Slot Roſenborg, D. 1. Julij 1746.

Under Vor Kongelig Haand og Signet.

Chriſtian R.

(L.S.)

Rett Extraherat af ſijnum Original.

Teſtr. Halldor Brinjolfsſon

Superintend. Hoola Stiftes.

Num. XXV.

AF Syſlumanenum i Mwla Syſlu Hans Vium, var lijſt Follnum Arfe epter Þorſtein nockurn Gudmundsſon, ad Upphæd hier umm 6. Hundrud, hvørs Brædur meinaſt vera Innann Hwnavatns Syſlu, Fader Þorſteins Gudmundur, hafe Auſt ur komed med Syſlumanenum Þorſteine Sigurdsſyne, og aflad þar þeſſa Sonar i Meinka



lauſu

ausu Frillulijfe. Lijsingeñ er Daterud 9. Maij 1749.

Num. XXVI.

Syslumaduren̄ i Borgarfiardar Syslu Arnor Jonsson, Lijste As-Prioon 13. aln. laungum, brotnum i Midiu, Merktum ├╫┤ a badum Endum, Virdtum fyrer 9. Fisk. Uppdrifnum a As-Fioru i Mela Sveit.

Num. XXVII.

ANNO 1749. Var a Oxarar Alþijnge Lijst, Epterskrifudum Oskila-Persoonum, af Syslumañenum i Snæfellsness Syslu, Gudmunde Sigurdssyne, er hañ auglijste þadan burt-stroknar, Nefnelega: a Næstlidna Vore, Hañese og Einare Jonssonum, Margretu Systur þeirra, og heñar Egta-Mañe Biarna Jonssyne, Hvoriar 4. Persoonur, hañ seiger Rigtadar af Grundarfiardar Bwda-Þioofnade. Biarna Einkieñe sie, ad hañ med Þioofslegum Svip, sie bæde Volu-mælltur og Blootsamur. Kona hañs Margret, hafe stoor Orkumsl i Kverkunum, Hañes hafe Kart-Noglur a flestollum Fijngrum, Einar sie Stuttur, Digur og Flamælltur. Hañ (Syslumadureñ) Lijser og Einare Sveinssyne, dæmdum til Lijflaat, fyrer framda Blood-Skom, hvor ed hafe Blood-Hnwt a añare Hendeñe, burtstrokeñ i fyrra Sumar. Item Þorsteine Bodvarssyne Lausgaangara, og Arna Grimssyne, Grundarfiardar Bwda-Þioof. Nok Jone Jonssyne eirneñ Þioof, Jorþum a Haar, og Dryckiu-Mañe; Og so sem aller fyrnefnder burtstrokner, sieu Kyñingarlauser, Oskar hañ Syslumeñ take þa Faangna, og sende sier, vilie eirneñ taka i Agt, ad giefa Utroodra Moñum wr sijnum Syslum til Jokuls, rigtug Attest, ad þar af þeckia kuñe, Skil þeirra.

Num. XXVIII.

## Eperskrifudum Kaup-Afsals-Pantsetninga og Giafa-Brefum var Lijst fyrer Logþijnges-Rettenum 1749.

1.

KAup-Bref Þorbiorns Biarnasonar, fyrer 28. hundr. i Jorduñe Signiarstodum, af Prestenum Sr. Einare Oddssyne, fyrer 176. Rixd. sp. Dat. 28. Febr. 1749.

2. Kaup-Bref Jons Biarnasonar, fyrer 12. hundr. i Jordune Biarnastodum, iñañ Isafiardar Syslu, med 3. Kwg. af Olafe Jonssyne, fyrer 60. Rixd. sp. og 8. Rixd. Cr. Dat. 23. Maij 1749.

3. Kaup-Bref Arna Jonssonar, fyrer 5. hundr. ur Jorduñe Miñe Gildisey, af Mad. Rañveigu Þorsteinsdottur, fyrer 25. Rixd. 4. Mark, Dat. 30. Januarij 1737.

4. Añar Kaup-Bref Arna, fyrer 5. hundr. ur somu Jordu, af Einare Hognasyne fyrer 14. Rixd. sp og 16. Rixd. Cron. Dat. 4. Aug. 1747.

5. Eignar-Lijsing Profastsens Sr. Biorns Magnussonar, fyrer 40. Hundr. Jorduñe Halldorsstodum, 20. Hundr. i Hoolum med 8. Kug. Þoorustodum og Leifshwsum, 50 Hundr. med 5. Kug. 15 Hundr. i Lundar-Brecku 10. Hundr. i Arndijsarstodum med 1. Kwg. 10. hundr. i Hafra-Læk med 1½ Kug. Jordunum Sand-Hoolum og Hoole, 36. hundr. ad Dijrleika, med 5. Kug. ollum liggiande Iñañ Þijngeyar Syslu, Dat. 3. Junij 1749.

6.

6. Giafa-Bref Gudrunar Biornsdoottur Eldre, a 12. hundr. i Jorduñe Stooru breida-Vijk, til Systurdoottur siñar Gudrunar Biornsdoottur, Dat. 28. Junij 1747.

7. Kongl. Majest. Bevilling, wtgiefeñ Eireke Hallgrijmssyne, og Koñu hañs Sigrijde Isleifsdoottur, ad meiga Testamentera Goß sitt, til Sveins Eyrekssonar, Dat. Christians-Borg 22. Martij 1748. Sialft Testamented er daterad 27. Martij 1749.

8. Mageskifta-Bref Hioonaña Ingemundar Þorsteinssonar og Þorbiargar Einarsdoottur, a 15. hundr. i Jorduñe Eydum, moot 12. hundr. i Sydre-Vijk, vid Syslumañeñ Hans Wium med 69. Rixd. Mille-Lage, Dat. 11. Maij 1748.

9. Kongl. Majest. Confirmation a Testamente Mad. Ingebiargar Oddsdoottur, til heñar Egta-Mañs, Profastsens Sr. Þorsteins Ketelssonar, Dat. Hirchsholms Slote D. 20. Maij 1746.

10. Kaup Bref Jons Helgasonar, fyrer 15. hundr. i Jorduñe Soora-Rauda-Læk, af Halldore Þorlakssyne, fyrer 60. Rixd. Dat. 25. Maij 1746.

11. Kaup-Bref Magnusar Skaptasonar, fyrer 20. hundr. i Jorduñe Breñe-Borg, af Syslumañenum Skwla Magnussyne, i Umbode Monsr. Spendrups, fyrer 80. Rixd. sp. Dat. 24. Novembr. 1738.

12. Kaup Bref Olafs Jonssonar, fyrer 7.½ hundr. i Lækiar-Skooge, af Hallgrijme Jonssyne, fyrer 41. Rixd. Dat. 15. Januarij 1748.

13. Kaup-Bref Syslumañsens Gudmundar Sigurdssonar, fyrer 30. hundr. Jordeñe Hofstodum, af Þorgils Sigurdssyne, fyrer 240. Rixd. Dat. 7. Maij 1748.

14. Añad Kaup-Bref Syslumañsens Gudmundar Sigurdssonar, fyrer 3. hundr. i Jordeñe Ketelsstodum, af Þorde Þordarsyne, fyrer 12. Rixd. 2. Mark og 8. sk. Dat. 11. Januarij 1749.

Brigdar-Lijsing Syslumañsens Gudmundar, a Foss-Parte i Skaptafells Syslu, vegna Konu siñar Mad. Þooruñar Biarnadottur, Dat. 16. Julij 1749.

15. Jardaskipta-Bref Biorns Biarnasonar og Eyolfs Brandssonar, a 8. hundr. i Svarfhoole og Litlu-Pwfu, med 2. hundr. 25. al. Millegiof, Dat. 5. Junij 1748.

16. Giafa-Bref Þoordysar Sigurdsdottur, a 10. hundr. i Jorduñe Kyrkiu-Læk, til Christinar Jonsdottur, Dat. 30. Aug. 1747.

17. Mageskipta-Bref Odds Eiolfssonar, a 7.½ Hundrade i Mwla-Kote, fyrer 6. hundr. i Bwdar-Hool, med 2. Kwg. Millegiof, af Olafe Syslasyne, Dat. 4. Junij 1749.

18. Kaup-Bref Vilhiaalms Jonssonar, fyrer 2. hundr. 100. aln. i Jorduñe Nwpe under Eyafiollum, af Gudnyu Þorsteinsdottur, fyrer 8. Rixd. specie, Dat. 25. Junij 1748.

19. Kaup-Bref Thomasar Syslasonar, fyrer 30. hundr. Jordeñe Veturlidastodum, af Snæbirne Hallssyne, fyrer 115. Rixd. Dat. 30. Martij 1748.

20. Kaup-Bref Eireks Brinjolfssonar, fyrer 10. hundr. Jordeñe Pwsu i Ölvese, med filgiande 3. ½ Kwg. af Sigurde Runolfssyne, fyrer 70. Rixd. specie og Croner, Dat. 11. Octobr. 1748.

21. Brygdar-Lijsing Jons Vigfwssonar Yngra, vegna Konu siñar, at þeim burtselldu Afbijlum, Eivindar-Mwla, hvar iñe hañ giefur Peninga-Skort siñ til Kyña, Dat. 7. Julij 1749.

22. Eignar-Lijsing Prestsens Sr. Halldors Brinjoolfssonar, at 10. hundr. i Jordeñe Hialmstodum, hvor Konu hañs giefeñ eru af Frw Gudrunu Einarsdoottur, Dat. 14. Julij 1749.

23. Kaup-Bref Sysslumañsens Jons Benedixsonar, fyrer 10. hundr. i Jordeñe Syrnese, af Torfa Gysslasyne, i Umbode Systur hañs Gudrunar Gyssladoottur fyrer 5. Rixd. hvert Hundrad, Dat. 14 Septembr. 1747.

24. Añad Kaup-Bref Sysslumañsens Jons, fyrer 5. hundr. i Jordeñe Grijtubacka, af Thomase Floventssyne vegna hañs Foostursonar Olafs Peturssonar, fyrer 3. Rixd. hvert Hundrad, Dat. 8. Maij 1747.

25. Kaup-Bref Ingemundar Biarnasonar, fyrer 12. hundr. i Jorduñe Tañstada Backa, med 2. Kwg. af Sr. Eireke Jonssyne, fyrer 14. Rixd. specie, og 8. Rixd. Croner, Dat. 16. Aprilis 1749.

26. Kaup-Bref Ivars Biarnasonar, fyrer 4. hundr. 80. aln. i Jordeñe Hlijd i Eystra Hrepp, af Gyssla Sighvatssyne, fyrer 9. Hundrud 40. aln. at Lands-Vijsu, Dat. 1. Ocobr. 1744.

27. Kaup-Bref Jons Biarnasonar, fyrer 12. hundr. i Jordeñe Bwlande, af Biarna Eirekssyne, fyrer 7. Rixd. hvert Hundrad, Dat. 20. Junij 1749. Item Uppbod somu Jardar, Odals-Moñum til Iñlausnar.

28. Kaup-Bref Sigurdar Gudmundssonar, fyrer 16. hundr. i Jorduñe Sidredals-Gerdum, af Halle, Grijme, Skwla og Illuga Þorlaakssonum, fyrer Penînga, Dat. 4. Maij 1749.

29. Kaup-Bref Brinjoolfs Biarnasonar, fyrer 17. hundr. i Breckuvelle og Foot, af Gudmunde Teitssyne, fyrer 51. Rixd. specie, Dat. 24. Aprilis 1747.

30. Kaup-Bref Einars Ømundssonar, fyrer 10. hundr. i Hamre med 1. ½ Kug: af Prestenum Sr. Olafe Brinjoolfssyne, fyrer 50. Rixd. specie og 1. hundr. 3. All. i Land-Aurum, Dat. 23. Junij 1748.

31. Kaup-Bref Sr. Lopts Rafnkelssonar, fyrer 7. ½ hundr. i Mwlakote, af Sigurde Eioolfssyne fyrer 120. Rixd. specie Jord og Kug. Dat 14. Junij 1749.

32. Pantsetning Sr. Lopts Rafnkelssonar, at 20. hundr. i Jordeñe Arbæ, til Hr. Biskupsens Olafs Gysslasonar, fyrer laanada 120. Rixd. specie, Dat. 9. Maij 1749.

33. Kaup-Bref Helga Sighvatssonar, fyrer Hælflenduñe Harastodum, af Sigrijde Þorsteinsdoottur, fyrer 54. Rixd. specie, og 10. Rixd. Croner, Dat. 19. Octobr. 1746.

33. Kaup-Bref Sysslumañsens Brinjoolfs Sigurdssonar, fyrer 15. hundr. i

Bodvars.

Bodvarsnese, af Brædrunum Vigfwsa og Hakone Arnasonum, fyrer 60. Rixd. specie, Dat. 19. Julij 1749.

34. Brigdar-Lijsing Sr. Hcalfdans Gyslasonar, vegna Konu siñar, Nefnelega; a Hreda-Vatne, 30. hundr. Kadalstødum, 20. hundr. i Vløndu-Backa, 10. hund. Breñestødum, 16. hundr. Kistu-Felle, 8. hundr. Svarfhoole, 1. hundr. 60. aln. Glitstødum, 4. hundr. Svalbarda, 8. hundr. Mødruvøllum, 30. hundr. 40. alner, Dat. 16. Julij 1749.

35. Kaup-Bref Eigels Brandssonar, fyrer 20. hundr. Jørdeñe Mela-Nese, af Sr. Eggert Ormssyne, fyrer 80. Rixd, Dat 16. Julij 1746.

36. Kaup Bref Pordar Jonssonar, fyrer 10. hundr. i Hnioot, af Syslumañenum Skwla Magnussyne, fyrer 50. Rixd. Dat. 9. Septemb. 1745.

37. Kaup-Bref Jons Kodrañssonar, fyrer 3. hundr. i Kviendesfelle, af Sr Eggert Ormssyne, Dat. 29. Octobr. 1748.

38. Pantsetning Syslumañsens Skwla Magnussonar, a Jørdeñe Tungu i Ørlegshofn, til Syslumañsens Brinjolfs Sygurdssonar, fyrer 100. Rixd. lænada Profastenum Sr. Birne Thorlacius, Dat. 23. Julij 1745.

39. Brigdar-Lijsing Syslumañsens Brinjolfs Sigurdssonar, vegna Konu siñar, a 13. hundr. 40. aln. i Mañskadahole, er selld sieu Hiaalmare Erlendssyne, Dat. 11. Julij 1749.

40. Brigd Løgrettumañsens Jons Porleifssonar, a 10. hundr. i Krooke, Dat. 16. Julij 1749.

41. Kaup-Bref Gudna Porsteinssonar, fyrer 6. hundr. 4½ al. i Jørduñe Litlu-Tungu, af Biarna Magnussyne fyrer Peninga, Dat. 21. Junij 1748.

Framañskrifad riett Extraherat. Test.

Effter gifvend Fullmagt
P. Magnusson

# Registur Alþinges Bookareñar Anno 1749.



